Jón Hjaltalín:
Vísindin, reynslan
og
„Homöopatharnir."

Rv. 1856.




# Vísindin, reynslan og „Homöopatharnir“.

Motto: FACTA LOQUUNTUR!
það er: Verkin sýna merkin.

---

Með því menn nú á dögum eru að upp fylla land vort með alls háttar lygasögum um homöopathana og þeirra frægðarverk, þá er nú mál til komið, að landar mínir fái að heyra sannleikann í þessum málefnum, og eins og hin sanna reynsla og vísindin jafnan eru hin bezta leiðarstjarna, þá ætla eg nú í fám orðum að skýra þeim frá þeim helztu grundvallarástæðum, er menn í öllum löndum hafa sett á móti hinni homöopathisku hjátrú, er alstaðar, eins og hver önnur hjátrú, hefir viljað ryðja sèr til rúms með ýmsum brögðum, en sem skynseminni og hinni sönnu reynslu allra landa og þjóða smátt og smátt tekst að sigra.

Sannanir þær, sem hin nýja læknisfræði setur á móti homöopöthunum, og sem þeir eigi hafa getað hrakið, eru þessar:

1) Smáskamtafræðin eða „homöopathían“ er byggð á því, að meðul þau, er orsaki einhverja sjúkdóma í líkamanum, og svo lækni þessa sjúkdóma, er menn fá þá af öðrum tilefnum. Taki menn „china“ í smáskömtum (sagði Hahnemann), þá er menn eru heilbrigðir, þá ollir þetta meðal kölduveiki, og því er „chinan“ kölduveikismeðal, en það vissu menn hún var löngu fyrir hans daga.

Brennisteinn inn tekinn í smáskömtum (sagði Hahnemann) gjörir mönnum kláða, og því læknar hann kláða. Opium stöðvar niðurgang, og því á opium í smáskömtum að vera gott meðal við harðlífi. Jurtin „belladonna“ gjörir skynsama menn vitlausa, og því læknar hún vitleysu.

Enginn fær köldu, þó hann taki china í smáskömtum aldrei svo lengi (svarar læknisfræðin). Enginn fær kláða, þó hann taki smáskamta af brennisteini alla æfi sína, og enginn læknast af „belladonna“ fyrir vitleysu, eða af harðlífi með opium, þó hann taki það aldrei svo lengi. Þúsundir af læknum, er nú lifa, hafa reynt að lækna sig, og jafnvel að setja í sig vissa sjúkdóma eptir Hahnemanns lærdómi, en hvorugt hefir tekizt; og þegar þeir spurðu Hahnemann og lærisveina hans, hvernig þeir nú sönnuðu verkanir smáskamtameðalanna, þá sögðust þeir raunar eigi geta sannað það betur, en þó væri lærdómur sinn sannur!!

2) Öll þau meðul, sem gjöra einhvern sèrstakan sjúkdóm í líkamanum, hljóta sjálfsagt, ef þau í homöopathanna smáskömtum hafa nokkra verkan, að gjöra hinn sama sjúkdóm verri, þegar hann af öðrum tilefnum er kominn í líkamann. Hrein uppsölumeðul geta aldrei bætt uppsölu, og espandi meðul geta aldrei sefað; kaffe er gott til að halda syfjuðum mönnum vakandi, en það fer enginn læknir að gefa inn kaffe við svefnleysi. Þetta sannar allra manna og lækna reynsla, en þó látast homöopatharnir eigi trúa!

3) Dagleg reynsla sýnir oss og hverjum óhlutdrægum heilvita manni (segja læknarnir), að því stærri skamt við gefum af hverju meðali sem er, því sterkari eru verkanir þess; þetta veit hver heilvita maður, og þó standið þið homöopatharnir á því fastara en fótunum, þvert á móti allri reynslu, að kraptur meðalanna aukist, eptir því sem inntakan er minni.

4) Skoðun smáskamtalækna á hinu rètta eðli og undirrót

sjúkdómanna er á engri reynslu byggð, heldur tómri hjátrú, heilaspuna-hugmyndum og ósannindum. Homöopatharnír gjöra sèr ekkert far um að þekkja líkamann og frumefni hans með þeirra margföldu samtengingum, og þeir vita ekkert um hina rèttu undirrót sjúkdómanna (sjá O, Hjaltalín og Homöopatharnir, blaðs. 8.). Nú vita allir, að enginn getur gjört að sigurverki, þegar það fer að ganga rangt eða standa, nema hann þekki alla einstaka parta þess, og enginn getur gjört við vèl að gagni, nema hann þekki hvern einstakan tilbúning á henni, svo sem hvert hjól, hverja pípu eða möndul, hvern sigurnagla og hvern skrúfnagla í henni. Nú með því mannlegur líkami, eins og flestir munu skilja, hefir þúsund sinnum margbreyttari samsetningu en nokkurt sigurverk eða vèl, þá er það hin mesta heimska að halda, að nokkur geti gjört við hann, svo í lagi sè, nema sá, sem þekkir parta hans og samsetning þeirra mjög nákvæmlega.

5) Þegar smáskamtafrœðin hefir átt að sýna sig á opinberum spítölum, þá hafa menn jafnan rekið sig á það, að hún er kraptalaus, sè hún án bragða um hönd höfð. Hinir heiðvirðustu og ráðvöndustu læknar í Norðurálfu heims hafa aptur og aptur sannað þetta. En þrátt fyrir þetta hafa homöopatharnir haft þá djörfung, að hrósa sèr af tilraunum sínum á spítölunum og fram setja þær, enn þótt þær sèu marghraktar áður, sem sönnun fyrir sinni smáskamtafrœði. Homöopatharnir þykjast enn þá, þrátt fyrir þetta, geta læknað alla sjúkdóma, og þykjast hafa óbrigðul meðul móti öllum manna meinum, en þegar þeir eiga að fara að sýna þetta í viðurvist þeirra manna, sem vit hafa á, þá hefir jafnan ekkert orðið úr neinu, og þær lækningar, sem eptir þá liggja, eru byggðar annaðhvort á hjálp náttúrunnar eða á því, að þeir hafa látizt brúka smáskamta, þar sem þeir hafa við haft sterkar eiturtegundir í stórskömt-

um, eða og hin allopathisku meðul innan um smáskamtana[1].

Margar fleiri sannanir hafa „allopatharnir" fært á móti „homöopöthunum", og sem hèr yrði of langt upp að telja, eins og það líka á hinn bóginn sökum efnisins veitir örðugt að láta þær verða skiljanlegar fyrir alþýðu, sem, svo að segja, lítið eða ekkert kann í læknisfræði, og þekkir ekkert til forspjallsvísinda læknisfræðinnar.

Til þess að sýna löndum mínum ofan á, hvaða lygafullar sannanir homöopatharnir hafa í frammi til að ginna og gabba fólk bæði hèr og erlendis, þá þarf eg ekki annað, en benda á hinar alkunnu sögur um þá bæði á Þýzkalandi og víðar, og mun mönnum þá gefast á að líta. Árið 1831 þóttust 4 homöopathiskir læknar í Vínarborg og Prag, sumsè Schaller, Bär, Schüz og Mayer, hafa meðhöndlað 375 cholera-sjúklinga, sem öllum hefði átt að hafa batnað; en það kom seinna upp, að þetta voru

[1]) Homöopatharnir hafa opt með ýmsum brögðum skorað sig undan því, að gjöra tilraunir á opinberum spítölum, og barið einu og öðru við, þegar þeir vissu, að læknar áttu að hafa umsjón með þeim. Stundum var það of mikil áreynsla fyrir sjúklingana að flytjast á spítalana, og stundum þótti eiga betur við af öðrum orsökum að lækna þá heima.

Skýrslur homöopathanna um lækningar sínar og önnur frægðarverk hafa eigi sjaldan orðið uppvísar að opinberum mótsögnum, og það fer nú dáfallega að brydda á þessu hèr á Íslandi; því í Skírni fyrir þetta árið stendur á blaðs. 102., þar sem herra Arnljótur er að skýra frá hinum „óbrigðulu kostum" homöopathíunnar, að þessi mikli lærdómur sè kenndur við háskóla í flestum af hinum menntuðu löndum, en herra O er í riti sínu: Hjaltalín og homöopatharnir, bls. 10., að barma sèr yfir því, að læknaráðið í Paris hafi nýlega átt að spyrna á móti slíkri kennslu með höndum og fótum, í því það var svo djarft, að leyfa sèr að kalla homöopathíuna eintóma „hjátrú og hègilju"!! Má ske það sè nú komið svo, að homöopatharnir og vinir þeirra telji Frakka eigi með menntuðum þjóðum! Herra Arnljótur segir og á sama stað, að homöopatharnir hafi á Krím læknað helmingi fleiri en allopatharnir, en hvað satt þetta er, skal nú seinna sýnt og sannað í grein þessari.

tómar uppdiktur. Tveir homöopathar í Berlín, Stüler og Haynet voru um sama leytið að fá þakklætisbrèf frá cholera-sjúklingum, sem þeir áttu að hafa læknað, en á hverjum allopathiskir læknar enga cholera gátu sèð. Menn rengdu því lækningarnar og þakklætisbrèfið, sem var undirskrifað af 12; málið kom í dóm, og dómarinn Zowe hèlt yfirheyrslu yfir þessum mönnum; einn meðgekk, að hann hefði undirskrifað; annar sagðist hafa undirskrifað eitthvað, en hann vissi ekki, hvað það var; einn mætti ekki, og hinir níu uppástóðu, að nöfnum sínum væri stolið!! Þetta skeði á Þýzkalandi 1831, eins og sjá má af mörgum þýzkum skýrslum á þeirri tíð, og danskur læknir Dr. Thune hefir ritað um það skýrslu, sem til er á dönsku, frá 1835, og sem er ómótmælt, og eg hefi til sýnis, ef vill. Þrátt fyrir þetta bera enskir homöopathar (sem hafa álitið, að þetta mundi ókunnugt á Englandi) þessar skýrslur fyrir sig nú á dögum, og bændurnir fyrir norðan og herra Arnljótur sýnist að trúa þeim. Hann kallar þær óhraktar; en hefir hann lesið „the Lancet" „Times" og „Athenæum" fyrir þessi síðustu árin[1]? Honum þykir það víst ekki neinar mótbárur á móti ensku homöopathíunni, að enska stjórnin sökum opinberrar lygi fyrirbauð homöopöthunum að sýna sig í nokkrum lækningum á spítölunum á Krím, og hefði án efa strax látið skjóta hvern þann, er hefði brotið á móti boði hennar. Herra Arnljóti segist nú raunar öðruvísi frá í Skírni í ár, blaðs. 102, því eptir skýrslu hans þar átti homöopöthunum að hafa gengið „helmingi betur" að lækna en stórskamtalæknunum á Krím, en þetta er svo fjarlægt öllum sannindum, að eg hefi, auk órækra skýrslna, homöopathanna eigin orð fyrir því (sjá War, Cholera and the Ministry of the Health by Dr. Wilkinson - homöopath -, London 1844), að þeim var stranglega fyrirboðið að eiga nokkurn hlut við sjúka menn í sambandshernum á Krím, og er þetta (þó það um stund ætti að verða þeim

[1]) Sjá meira hèr um í svari mínu til herra A. Ólafssonar í Þjóðólfi, 6. des. þetta ár.

til frægðar á Íslandi) hin versta útreið, er þeir nokkurn tíma hafa fengið, og sýnir ljósast, hvaða trú stjórnirnar á Frakklandi, á Englandi og í Sardiníu hafa á homöopathíunni. Þetta og annað þvíumlíkt er nú grundvöllurinn fyrir hólinu um homöopathíuna, sem verið er að bera í ykkur, landar mínir! lesið og dœmið sjálfir!

Árið 1828 lèt Austurríkiskeisarinn homöopathinn Marenteller gjöra tilraunir með homöopathíuna á stríðsmannaspítalanum í Vínarborg í viðurvist nefndar manna, er hann þar til lèt setja, og samanstóð af 8 lærðum mönnum; en tilraunum þessum lauk svo, að nefndinni, að nokkrum tíma liðnum, leizt eigi á blikuna, og bað stjórnina sem fyrst að hætta þessum leik með líf og heilsu manna (sjá Klose, Zeitung für das gesammte Medicinalwesen. Aug. 1829). Þetta eru nú frægðarverkin, sem hinn „nýi“ lærdómur á að hafa gjört í Vínarborg, en 1849 var enginn homöopathiskur professor í Wien. Árið 1829 skipaði Nicolaus Rússlandskeisari að reyna homöopathíuna í Pètursborg, og fèkk þar til Dr. nokkurn í „homöopathie“, Hermann að nafni, frá Sachsen, föðurlandi lærdóms þessa. Tilraunirnar stóðu yfir í 5 mánuði, og mesta fjölda af læknum, sem sáu þær, bar saman um, að lækningarmáti þessi væri „aldeilis ónýtur“, og keisarinn fyrirbauð að við hafa hann á nokkrum spítala í ríki sínu (sjá Journal des Ministerium der innern Angelegenheiten, 1832). Þið hafið víst ekki lesið þetta, mínir góðu norðlenzku homöopathar! og því skal eg segja ykkur fleiri sögur, sem að minnsta kosti sýna ykkur það, að homöopathían er ekki svo kornung, sem þið haldið.

Árið 1832 lofaði professor Pointe, sem var læknir við hospítalið Hôtel-Dieu í Lyon, homöopathinum Dr. Guèrard að reyna sig á svo mörgum veikum, sem hann vildi, hjá sèr. Homöopathinn valdi sèr 15 sjúklinga, sem hann hafði út af fyrir sig, og voru eigi færri en 60 læknar, bæði homöopathar og aðrir, við staddir. Eptir hèr um bil 3 vikur gafst homöopathinn upp við árangurslausa tilraun, og eng-

inn hinna homöopathanna gat sagt eitt orð (sjá Gazette medicale de Paris, 1832).

Árið 1834 voru „homöopathar“ og „allopathar“ (smáskamta- og stórskamtalæknar) látnir reyna sig á opinberum spítala í Würtemberg; hvor flokkurinn fyrir sig fèkk 14 sjúklinga, og að 15 dögum liðnum voru 13 sjúklingar læknaðir hjá stórskamtalæknunum, og hinn 14. læknaðist eptir 28 daga; þar á móti voru homöopatharnir ekki búnir að lækna einn einasta sjúkling eptir 40 daga eða rúmri viku seinna en allir stórskamtalæknarnir höfðu læknað alla sína, og stjórninni þótti þá svo nóg um, að hún skipaði að hætta þessum leik (sjá Frorips Notizen 1835, nafnfrægt og alkunnugt rit). Hvað heitir homöopathiski professorinn í Würtemberg núna, mínir hálærðu homöopathar? Ef þið segið mèr nafn hans, get eg sagt ykkur nýja sögu um homöopathíuna frá þessu ríki.

Nokkru seinna, en þetta skeði, voru aptur gjörðar homöopathiskar tilraunir á Hôtel-Dieu í Parísarborg af homöopöthunum Curié og Simon á 140 sjúklingum í margra lækna og homöopatha viðurvist, og útfallið varð, að þær reyndust handónýtar, og homöopatharnir gátu þar á móti ekkert sagt, en urðu að þegja, þar sem sannleikinn talaði (sjá Jonathan Pereiras, Materia medica, London 1856, einhver hin merkilegasta nýja læknisbók, sem snúið hefir verið á þýzku og fleiri mál, og sem yfir alla Norðurálfuna er álitin afbragðsbók).

Árið 1835 var homöopathían gjörsamlega hrakin og álitin skaðvænleg af Academie Royale de Medecine í Paris, og aldrei hefir hún þar síðan náð neinni samri rótfestu, eins og sjá má af áðursögðum rökum, og þar til af prof. Bouchardat, Notice sur les Hospitaux de Paris, 1854.

Þetta er nú, kæru landar! mergurinn úr allra skynsamra manna dómi um hina svo kölluðu „**nýju**“[1] homöo-

---

[1]) Herra O (sjá “Hjaltalín og homöopatharnir“) heldur — því hann er víst eigi mjög fróður í læknisfræðissögunni —, að læknisfræðin nýja eða „la medecine moderne“, sem Frakkar kalla, sè afgamalljálkur,

pathíu, sem verið er að hrósa fyrir ykkur. Það er af hrósurunum þagað um það, að margir homöopathar fèllu frá á freistingartímanum; að sjálfur gamli Hahnemann fór að tyggja og ráðleggja camphóru í stórskömtum, þegar hann varð hræddur við cholera, og að margir homöopathar fóru að brúka stórskamta í laumi, þegar í nauðirnar rak, en margir hafa þó sjálfir játað því (sjá homöopathens Dr. Fangels Forsög ved Sygesengen, Kjöbenhavn, 1835).

Náttúrufræðingar og efnafræðingar hafa þráfaldlega gjörzt til að reka homöopathana þannig í vörðurnar, að þeir hafa orðið að þagna, og engu getað svarað, og hefir þeim orðið það því örðugra, sem þeir eigi geta brugðið þessum mönnum um það, að þeir væru samfèlagsbræður sínir, sem vildu hniðra sèr, til að auka sitt eigið álit og sín rèttindi, hvað eð herra ◐ heldur að hafi komið lækn-

---

en hann verður að gæta þess, að þetta er röng skoðun, því læknisfræðin nýja með öllum sínum greinum er hèr um bil 30 árum yngri en homöopathían, og hin „nýjasta“ sèrstaka læknisfræði, er menn gætu kallað „efna-læknisfræði“, og sem nú, svo frábrugðin sem hún er allopathíunni, hefir þúsund sinnum fleiri áhangendur á meginlandinu, en homöopathían. Stiptari hennar er Dr. „Rademacher“, mikill vin Huffelands gamla; hann var á yngri árum hneigður að homöopathíu, en varð, áður langt leið, á annari meiningu og henni gagnstæðri, því hann við hafði feikilega stórar inntökur. Hann læknaði vel og lengi, og dó í heiðri mjög gamall óásóktur, þó hann opt hefði verið mjög berorður við „allopathana“ (hans lækningabók er að eins 8 ára gömul); og ef spár mínar eiga eigi of langan aldur, þá mun þessi fræði að 10 árum liðnum hafa sigrað homöopathíuna hèr á landi, því Íslendingar eru af náttúrunni eigi smáskamtamenn. Hin önnur grein nýju læknisfræðinnar eru hinir svo kölluðu náttúrulæknar, sem við hafa ofur fá og einföld meðul. Einn af þeirra flokki gjörði homöopöthunum í Hamborg ljótan grikk fyrir nokkrum árum síðan; hann þóttist allt í einu vera „homöopath“, og læknaði betur en nokkur annar smáskamtalæknir, svo allir sóttu hann, en að ári liðnu lýsti hann því opinberlega yfir, að hann engin homöopathisk meðul hefði við haft, heldur tómt sykur og spiritus-dropa vatni blandaða.

um til að rísa upp á apurfótunum á móti homöopöthum.

Hinar helztu röksemdir náttúrufræðinnar og efnafræðinnar á móti homöopöthunum eru þessar:

1) Homöopatharnir hljóta að vera hin mestu vísindalegu flón, sem til eru á vorum dögum (segja náttúrufræðingarnir), því þeir fyrirverða sig ekki að kaldhamra meiningar sínar á móti hinum ljósustu grundvallarreglum allra vísinda, og spotta, svo að segja, mannlega skynsemi, því þeir eru að innræta mönnum, að náttúrulögin, sem eru eins sönn og hinn eilífi höfundur þeirra, nái eigi til meðalafræðinnar. Þeir trúa sumsè, og eru að reyna til að koma einföldum mönnum til að trúa þeirri óumræðilegu vitleysu, að kraptur meðalanna aukist, eptir því sem hið verkandi efni þeirra minnkar, og með þessu móti vilja þeir skilja verkanir efnanna frá efnunum sjálfum, sem er aldeilis ómögulegt, og óþenkjanlegt fyrir heilbrigða skynsemi. Allur lærdómur og öll reynsla sýnir það, að allir kraptar efnanna eða náttúruhlutanna minnka að því skapi, sem efnið sjálft minnkar; þyngdaraflið, fráspyrnu- og aðdráttaraflið, og öll önnur öfl hinna dauðu hluta minnka, eptir því sem efni þeirra minnkar. Stórir steinar falla til jarðar með langtum meira afli, en litlir steinmolar; það er langtum hægra að mola lítinn stein en stóreflisbjarg. Segulaflið minnkar að því skapi, sem segulstálið er minna, og rafurmagnið er því minna, sem rafurmagnsverkfærið er lítilfjörlegra. Eitt gran af völskueitri gjörir mönnum og skepnum mikinn skaða, ef það er inn gefið, en millíón-hluti grans af völskueitri sýnir enga verkun. — Ef að grundvallarreglur homöopathanna væru sannar, þá ættu menn að verða meira mettir af einum bita af mat, heldur en af einni heilli máltíð, óþyrstari af einum dropa af þorstadrykk, heldur en af heilli mörk; fyllri af einum dropa af brennivíni, heldur en af heilli flösku, og hressari af einni teskeið af kaffe, en af heilum kaffebolla. — Öll slík vitleysa nær

engri átt, og er eigi til annars, en til að koma alls konar hjátrú og mótsögnum inn hjá einföldum mönnum.

2) Allur meðalatilbúningur homöopathanna sýnir það, að þeir hafa enga hugmynd um efnafræðina og sannleik þann, er hún hefir í ljós leitt. Það er ómögulegt að skipta efnunum í svo smáa parta, eins og homöopatharnir þykjast gjöra, eða þynna þau, eins og þeir segja, því frumagnir (Atomer) hlutanna, sem eigi verða þynntar, eru langtum stærri, en homöopatharnir halda. Þetta hafa efnafræðingarnir sýnt á hinum seinni tímum, og enginn getur neitað því[1].

3) Ef að grundvallarreglur homöopathíunnar ættu að vera sannar, þá væri öllum manneskjum og skepnum ómögulegt að vera heilbrigðum eitt augnablik, og þá þyrfti hvorki að tala um heilbrigði nè lækningar, því þá væri allra manna og skepna líf ekkert annað en óteljandi sjúkdómar frá vöggunni til grafarinnar. Homöopatharnir þykjast sumsè vita (og það er grundvöllur lærdóms þeirra), að sèrhvert náttúruefni gjöri marga sjúkdóma í líkamanum, og til að taka eitt til dæmis vil eg að eins geta kalksins, sem finnst í smáskömtum í öllu vatni alstaðar á jarðarhnettinum; þetta efni á að gjöra mönnum svima, sóttarmarning, höfuðverk sjóndepru, drætti í andlitinu, velgju, verki í lifrinni, og maganum, svefndrunga andþrengsli, pínu í endagörninni og næstum ótal fleiri sjúkdóma[2]. Nú með því náttúrufræðingar hafa sýnt og sannað (og þetta er hægt að sýna hverjum, sem eigi er blindur), að vatnið alstaðar innibindur í sèr kalk, þá spyrja þeir homöopathana: „hvernig stendur á því, að fólk, sem dag-

---

[1]) Homöopatharnir halda, að einu grani eða byggkorni og einum dropa verði skipt eigi að eins í trillión, heldur og í decillión-staði. En þetta stríðir þvert á móti reynslu efnafræðinganna um frumagnir hlutauna (Atomer).

[2]) sjá Hahnemann, die chronischen Krankheiten, og Hartlaubs systematische Darstellung der reinen Arzneiwirkungen.

lega drekkur vatn, eigi skuli hafa alla þssa sjúkdóma?“ „Ekki hefi eg svima“, segir einn, „og hefi eg þó sopið á vatni í dag!“ „Ekki hefi eg velgju eða verk í lifrinni“, segir annar, „og hefi eg þó drukkið vatnssopa í morgun!“ „Engan verk hefi eg í maganum“, segir sá þriðji, „og þó drekk eg ekkert annað en vatn, sem kalk er í!“ „Það gengur ekkert að endagörninni í mèr“, segir sá fjórði, „og þó hefi eg drukkið vatn í mörg ár!“ „Það er auðsèð á öllu“, segja náttúrufræðingarnir, „að þið, homöopathar, hafið enga hugmynd um náttúruefnin og verkanir þeirra, og því er lærdómur ykkar sú argasta villa, er nokkru sinni hefir upp komið“. Hver einasta manneskja fær í sig á hverjum degi bæði við andardráttinn, næringuna og svaladrykkinn margt af efnum þeim í smáskömtum, er hvert um sig eptir ykkar hjátrú — þannig nefna náttúrufræðingar almennt homöopathíuna — á að verka margvíslega sjúkdóma í líkamanum, en allir heilvita menn sjá, að þetta er lygi. Allt uppsprettuvatn og allt rennandi vatn innibindur í sèr ótal smáskamta, t. a. m. af kalki (eins og áður er sagt), magnesíu, tinnusýru, járni og fleiri efnum, sem hvert um sig í smáskömtum eptir ykkar lærdómi á að gjöra ótal sjúkdóma; en þetta er, sem allir sjá, hin argasta vitleysa.

4) Smáskamtalæknarnir reyna til að telja mönnum trú um, að þeir með því að hrista og skaka smáskamtameðul sín gefi þeim nýja og sterkari krapta. Þeir þykjast með þessu móti geta náð sálinni úr meðulunum, er þeir svo kalla. Þetta þykir nú efnafræðingunum, sem von er, svo aðhlægilegt, að það nái engri átt og minni menn að eins á aðferð gömlu galdramannanna, sem voru að veifa töfrastöfum sínum í ýmsar áttir, svo töfrarnir yrðu því magnaðri. Dauðir hlutir geta aldrei orðið að sál, hvað lengi sem þeir eru hristir og skakaðir, og kraupturinn getur ómögulega skilizt frá efninu eða aukizt við hristinginn.

Fyrir fáum árum þóttist einn homöopath í Vínarborg nýlega hafa fundið óbrigðult meðal við taksótt, og það var barkaslím úr tóu, sem hann, til að gefa því fallegt nafn, kallaði bronchin. Þetta barkaslím hristi hann og skók með spiritus, þar til hann var uppgefinn í handleggnum, og gaf það svo inn í millíónpörtum. Hèr af varð nú almennur hlátur, sem von var, og allir vísindamenn sögðu, að nú væri miðaldartíðin víst að fæðast aptur, og væri nú bezt að fara að prenta Portas galdrabók gömlu. Þessi homöopath heitir Hermann, lifir enn og er álitinn meðal homöopathanna einhver hinn mesti garpur!!! (sjá Dr. Kissel, die Kunstheilung der Pneumonien, Eilenburg 1852, bls. 149).

Hver veit, nema eg geti frætt ykkur á einum og öðrum, nýjum og merkilegum uppgötvunum í homöopathíunni, um það líkur, þó þið haldið eg viti lítið í henni!

Eptir þannig, bæði að ósk „Norðra" og annara, að hafa fram sett þær sannanir, sem vísindin setja á móti hinni homöopathisku hjátrú, vil eg biðja hina norðlenzku homöopatha að hrekja þær sem fyrst, ef þeir geta; þeir mundu þar með ávinna sèr frægð hjá útlendum homöopöthum, og, ef til vill, mikinn heiður hèr á landi; eg skal þá aptur á móti láta homöopathíuna óáreitta, ef mèr virðast röksemdir hennar nógu sterkar, en verði þær veikar og ónýtar, mun eg svara þeim. Eg vona þá um leið að minnsta kosti að geta sýnt löndum mínum með ljósum rökum ofan á, á hvað sönnum ástæðum herra O litla rit, „Hjaltalín og Homöopatharnir", er byggt, og hvernig þessi í læknisfræði lítt kunni rithöfundur fer með læknisfræðissöguna, og hèr um bil hundrað þúsund heiðvirðra lækna, er uppi eru á vorum dögum; hver veit þá, þegar svo er komið, nema það kunni að takast mèr, að sýna ofan á, að það eru eigi hinir homöopathisku skottulæknar hèr á landi, heldur einmitt sjálfur landlæknirinn, sem nú hefir hina mestu orsök til að kvarta yfir þeirri nú í frammi höfðu læknamálefna lögstjórn hèr á landi; hver veit, segi

eg, nema landlækninum þá kunni að takast að sýna og sanna, að þar muni vera eitthvað geggjað, þar sem menn nú hèr á landi, þvert á móti allra siðaðra landa plagsið, leggja læknisfræðina, sem innibindur í sèr hin örðugustu vísindi, undir alþýðu dóm. Já, hver veit, nema honum kunni að takast að sanna, að líf og heilsa manna liggi nú sem leikfang í höndum óvitra manna hèr á landi; hver veit, segi eg, að lokum, nema landlækninum þá kunni að takast að forsvara hin svo kölluðu gömlu læknislög hèr á landi, og sýna fram á, að eptir skynseminnar dómi muni hið gamla orðtak: „með lögum skal land byggja", einmitt nú á dögum í læknamálefnum þurfa að brýnast og skýrast fyrir Íslendingum.

---

Barnaveikin gengur enn, sem kunnugt er, víða hèr á suðurlandi. Í Reykjavíkursókn hafa síðan í vor hèr um bil 30 börn fengið ýmsar tegundir hennar, og þar af hafa 13 dáið, en á 17 hefir hún orðið fyrirbyggð eða læknuð. Árið 1827, þegar hún geisaði hèr, dóu, sem sjá má af kirkjubókinni, 29 börn hèr í sókninni úr henni, nærfellt af hálfu færra fólki, en nú er um að gjöra. Mèr þykir því, þegar sannleikans er gætt, menn mega vera glaðir yfir, að veiki þessi hefir eigi orðið að meira tjóni, enn sem komið er, hèr í sókninni, sem nú telur nærfellt 1800 manns, þó sumir þykist nú kunna betur með að fara.

Þær sögur ganga nú um allt land, að síra Magnús Jónsson á Grenjaðarstað, og má ske fleiri fyrir norðan, lækni barnaveikina viðstöðulaust og hafi óbrigðul meðul við henni, og sèu þær sannar, þætti mèr gaman að fá skýrslu hjá síra Magnúsi um, hvað muni koma til þess, að homöopathíunnar er að engu getið í hinum nýjustu og beztu barnalækningabókum. Tveir hinir nafnfrægustu barnalæknar í Paris, sumsè Rilliet og Bartez, af hverjum hinn seinni er líflæknir hjá hinum unga syni

franska keisarans, tala ekkert um homöopathíuna og hennar óbrigðulu meðul í þeirra stóru og nafntoguðu barnalækningabók (Handbuch der Kinderkrankheiten). Dr. Charles West, sem nú er læknir á barnaspítalanum í Lundúnaborg, og hvers lækníngabók nýlega er út komin í Kaupmannahöfn, og hefir í mörgum nafnkunnum blöðum fengið hið mesta hrós (sjá Fremstilling af Börnesygdommenes Natur og Behandning af Charles West, oversat af Prof. Mansa, trykt í Kjöbenhavn 1855), nefnir ekkert þessi óbrigðulu meðul eða hinar homöopathisku lækningar, allt að einu og prof. Bouchardat í Paris, sem í hans „Nouveau Formulaire Magistral", Paris 1854, talar svo mikið um prof. Larroque's heppnu tilraunir með barnaveikina, nefnir ekki hin homöopathisku meðul við henni á nafn, heldur kastar í stað þess nokkrum háðglósum í homöopathana fyrir þeirra aðhlægilegu smáskamta. Að Vesturheims[1] læknum muni og lítast lítið á þessi óbrigðulu homöopatkisku meðul, þó herra Arnljótur sýnist að vilja gjöra þá að homöopöthum, má sjá á Horace Green's „Observations on the pathology of Croup, New-York 1849, og ótal fleiri lækníngabókum frá Ameríku, hvar menn almennt nú á tímum brúka allt önnur meðul og einkum vítisstein og álún við barnaveikinni.

Enskir, franskir og hollenzkir læknar, er hèr voru í sumar, þekktu og ekkert til þessara óbrigðulu meðala, og læknir prinz Napoleons, er hèr var með honum, glotti heldur, þegar eg sagði honum frá þessum íslenzku nýj-

---

[1]) Að homöopathíunni hafi á einstaka stað tekizt að þrengja sèr inn í Vesturheimi með upplognum og marghröktum lygasögum frá þýzkalandi, sannar ekkert annað en það, að einstakir menn þar eru eins hjátrúarfullir í því, eins og með „Mormónana", sem hafa fæðzt og upp alizt í þessu landi og sem líka hafa nógar prentaðar skýrslur að skírskota til. Borðdans, galdrar og hinar örgustu draugasögur eru nú að spretta upp í Vesturheimi ásamt alls háttar hjátrú, og þeir, sem kenna það, kallast á meðal sinna manna lærifeður. Fyrir 4 árum lètu á þenna hátt 7 kvennmenn gjöra sig að doctorum í læknisfræði.

ungum, og kvað slíka „ofsatrú“ fyrir löngu útkulnaða á Frakklandi. Allir merkislæknar í Vínarborg, Prag, Berlín, Kaupmannahöfn, Stokkhólmi og Christianíu verða og annaðhvort enn þá að vera ókunnir þessum óbrigðulu meðulum eða hafa enga trú á þeim, því barnaveikin er alstaðar álitin einhver hinn hættulegasti barnasjúkdómur.

Hafi síra Magnús eða hans homöopathisku áhangendur hèr á landi sannarlega óbrigðul meðul við barnaveikinni, þá skora eg á þá, að auglýsa þau á prenti sem allra fyrst. Skyldan býður þeim það, og síra Magnús getur, ef allt reynist satt með þessum hætti, orðið einhver nafnkunnasti maður í Norðurálfu heims og mun njóta mikils endurgjalds. Eg fyrir mitt leyti er mjög hræddur um, að hèr sè eitthvað geggjað og orðum aukið, því bæði er það, að eg veit eigi til, að barnaveikin, nú sem stendur, sè í syðri eða norðari Þingeyjarsýslu, og líka hafa þessi „óbrigðulu meðul“ brugðizt hèr fyrir austan fjall, hvar flest öll, ef eigi öll, börn, er fengu þau við barnaveikinni, sáluðust úr henni.

Það er margreynt í öllum löndum, að barnaveikin er allajafna tíðust og verst í votviðra- og rigninga-plássum, og það hefir um langan tíma sýnt sig, að barnaveikin hefir verið langtum tíðari og verri hèr á suðurkjálkanum en á norðurlandi. Hver veit nú, nema barnaveikin í þetta sinn sè enn þá ókomin í Þingeyjarsýslu, hvar hún að minni vitund eigi mun hafa verið, svo telja megi, í hin síðustu ár? Hver veit, nema síra Magnúsi gefist færi að reyna sig á henni til hlítar, og þetta væri, ef til vill, því óhultara, sem nú er búið að hleypa í fólk nokkurs konar homöopathiskum trúarofsa (Fanatisme) á homöopathíunnar óbrigðulu barnaveikismeðulum. Verði þessi trúarofsi að öðru leyti Íslendingum til gagns og uppbyggingar, þá stundir líða, þá eru þeir allra þjóða heppnastir, en þá, sem allt af eru að bera fyrir sig reynsluna um verkanir hinna hohöopathisku meðala í þessum og öðrum sjúkdómum, vil eg biðja að yfirvega og ígrunda vel orð

hins nafnfræga Dr. Zimmermanns, er hann segir: „reynslan er sú bók, sem enginn getur lesið nema sá, er vel skilur það mál, á hverju hún er skrifuð. Hver sá, er skilur bók þessa illa og einungis með því móti, að vera allt af að leita að þýðingu meininganna í orðabókinni, hann fær optast aðra meiningu úr henni, en í henni liggur. Tungumál náttúrunnar er sára torvelt að skilja, einkum fyrir þá, er að eins hafa ónýta orðabók við að styðjast".

Eg legg nú niður pennann í þetta sinn bíðandi eptir svari, en eg mun jafnan, l. g., reiðubúinn að taka hann upp aptur til að forsvara læknisfræðina, hina sönnu reynslu og vísindin, sem menn nú hèr á landi sýnast að vilja fóttroða með vantrú og nokkurs konar „homöopathiskum trúarofsa, um sama leytið sem menn á hinn bóginn stólandi upp á þessi svo kölluðu óbrigðulu homöopathisku meðul" leggja líf og heilsu barna sinna undir leikfang lygafullrar reynslu.

Reykjavík, 24. nóv. 1856.

J. Hjaltalín.

---

Í prentsmiðju Íslands 1856. E. Þórðarson.

